# Minning
## Frúr Stiptamtmannsinnu
# Sigrídar Magnúsdóttur Stephensen,

samin af
Hennar Syni
**Magnúsi Stephensen,**
Konúnglegrar Hátignar virkilegu Etatsrádi og Justitiario á Islandi.



Leirárgördum, 1810.
Prentud á kostnad Geheime Etatsráds Olafs Stephánssonar,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.



Sáluga Frú **Sigridur Magnúsdóttir Stephensen** fæddist í þennann heim, þann 13da Nóvembr. 1734, ad Stóranúpi í Árness-Sýslu, af jafn-ypparlegum og ágjætum Foreldrum, þáverandi Løgmanni Sunnan og Austan á **Islandi**, sídan þessa Lands Amtmanni, **Magnúsi Gíslasyni** og Frú **Þórunni Gudmundsdóttur**, hvørra Ættgøfgi og Mannkostir eru enn lifandi, og munu lengi lifa, í margra þessa Lands Innbúa minni. Og svo sem á hvørttveggja er

minnust í ádur prentudum Ættartølum og Lífssøgum þessara Merkis-hjóna, og sálugu Biskups Frúr Þórunnar Olafsdóttur, finn eg hér einberann óþarfa ad ordlengja framar um alkunna Ættgøfgi minnar sálugu Módur, en vík strax til, sem allra styttst, ad yfirlíta hennar lofsverdu og dygdugu Æfi.

Sem Einbirni bestu og efnagódra Foreldra, hlotnadist henni eitthvørt hid besta uppeldi, sem hér á Landi var audid ad fá, um hennar uppvaxtar-ár, til hvørs þeir eckért spørdu, fyrst ad Stóranúpi, sídan ad Brædratúngu, og seinast ad Leirá í Borgarfirdi. Flest sem tignustu Mey Landsins, eins og hún var, mátti, í uppeldisins tilliti, til sæmdar og heilla koma, létu þeir sér annt um ad fá henni kénnt bædi til munns og handa. Og þared Nátt-

úran,

úran, med ríkuglegum náms-gáfum, hafdi mjøg orlátlega útbúid hana, leiddi uppeldisins umhyggja vora nú Háſælu ſvo lángt áfram mædulítid á fullkomnunar-veginn, ad hún ſkjótt taldiſt, í ølln tilliti, hinn beſti Qvennkoſtur á Islandi, þegar hún, því nær 27 Ara ad aldri, giptiſt, þann 16da Septembr. 1761, þáverandi Vice-Løgmanni Nordan og Veſtan á Islandi, ſídan Amtmanni, en ſeinaſt fyrſtum íslendſkum Stiptamtmanni, og nú Geheime Etatsrádi Hra. Olafi Stephánsſyni, Manni henni ad dygd og dugnadi, ad alls Almenníngs dómi, ſambodnum; og þeirra ſambúd í Hjónabandi um 46 ár og 6 vikur, vard bádum eins áſtrík og yndæl ſeinaſta daginn, ſem fyrſta, og ſérhvorn þar á milli; í ſtuttu máli: ſannkallad Himnaríki á Jordu. Med 7 Børnum bleſſadi Gud þeirra

luckusæla Hjónaband, hvørra 4 enn lifa; alls med 3ur Sonum og 4um Dætrum. Ellstur þeirra er sá, sem nú ritar þessa stuttu Minningu; honum næst var Frú Þórunn, sem giptist Biskupi Dr. Hannesi Finnssyni, en deydi í Bólunni 1786; svo núverandi Amtmadur yfir Islands Vestur-Amti Stephán Stephensen; sídan Jústitz Sekretéri vid Landsyfirréttinn Bjorn Stephensen; þar eptir vóru þær Ragnheidur og Margret, sem bádar deydu á 1ta aldurs ári; en ýngst er Ragnheidur Scheving, gipt Frænda sínum, Sýslumanni í Borgarfjardar-Sýslu Jónasi Scheving.

Mestann hlut Æfi minnar heittelskudu og dygdarkustu Módur, lifdi hún vid góda heilsuburdi, þegar eg undantek árid 1770 – 71, þá hættuleg

Brjóst-

Brjóstveikju-tegund heimsókti hana, en vard þó loksins heppilega læknud af þá-verandi nafnfrægum Landphysico Bjarna Pálssyni. En nú um 2 eda 3 ár fyrir hennar andlát, fann hún til einhverrar tegundar af Aungvita-sótt (Lipothymia five syncope) vid og vid, en med svo mikilli hægd, ad þau líktust mest svefni. Samt tók hennar, ádur sérlega góda, minni vid þau ódum og úr því ad réna, eptir því áſamt, sem ellibúrdir gjørdu þad náttúrlegt. Stødugа umsjón á ferli gat hún þó sjálf allt-af haft í húsi sínu, og Kirkju sókt, í hvorri hún, hálfum mánudi fyrir sitt Bana-dægur, géck til drottinnlegrar Qvøldmáltídar. Nóttina fyrir sitt andlát svaf hún, ad venju, allvært, en ad morgni, þann 29da Novembr. 1807, qvartadi hún um nockurn, þó vægann brjósthita, og féck litlu sídar

ofurhægt aungvit, í hvørju hún, í fadmi síns hjartkjæra Ektamanns, algjørlega burtsofnadi, og leid sem ljós á burt úr þessu lífi, hérum kl. hálfgengin 11 fyrimiddag, án þess ad merktist nockurt andvarp eda vottur um þjáníngu vid hennar andlát, eptir mjøg dygdarríkt, heidursfullt og uppbyggilegt líf á þessum jardarhnetti, um 73 ár og 16 daga.

Þanninn leid á burt frá oss aptur í Gjafarans heiløgu hønd, einhvør hin besta, dygdugasta og máské fullkomnasta sál, sem nockru sinni búid hefir í Konu líkhama hér á landi; leid burt þess fegursta Qvennprýdi, skínandi munstur, sem bestu Ektaqvinnu, ræktarfyllstu Módur og hógværustu Húsmódur; leid á burt voladra adstod, øllum fagurt, lifandi dygda dæmi, og allra gódra unan. Þennañ ordróm munu allir, er til heñ-

ar rétt þecktu, skyldir og vandalausir veita hennar loflegu Minníngu, og sjálf en helbláa Öfund, sem Dygdina ávallt nagar og offœkir, hlýtur rodnandi ad játa hann saññœli, því hér hofdu Náttúra og Dygd addáanlega hjálpast ad, til ad minda einhvörja þá fullkomnustu Konu, sem hér hefir híngad til géfist af vorri Þjód.

Sáluga Frú Sigrídur Magnúsdóttir medtók af Náttúrunnar rausnarsomu hendi í mesta máta skarpvitra, greindarfulla og ljúflynda Sálu, og henni til íbúdar frídann og fyrimañlegann hraustann Líkhama. Á úngdóms árum hennar þókti hún einhvör hin dáfrídasta mey, og til daudadags hofdínglegasta Kona. Hennar framgángur og fas allt var sérlega stillt, sidsamt, baud þocka af sér, og innskaut-

þegjandi virðíngu hjá sérhvörjum manñi. Viðmótið djarft og einarðlegt, en þó sérlega blídt og góðsamlegt, jafnan leidt af tilgjørdarlausri kurteysi, snilld, ráðvendni og skynsemd. Hún hafði, sem mælt, ødlast mikinn og fljótann skarpleika, sérlega greind og eitthvørt hid mesta næmi, sem hér eru dæmi uppá. Þad mundu ýkjur þykja, ef eg þar uppá vildi framtelja sannar en nærstum ótrúlegar røksemdir, svo sem henni of náskyldur, og eins uppá hennar spilandi gáfnalag, því þeigi eg um allar, en vitna til allra sannordra, er hana þecktu og med henni vóru, hvørt-hérum sé nockud ofhermt. Því øruggari framber eg samt þetta vitni, sem þessi náttúrunnar dýrmæta gjøf, leggur ad sønnu grundvøllinn til mánna frábæra verdugleika og velførnunar, en er samt ecki til ad stæra sig af, svo sem géfins þegid lán

af

af Skaparans mildu hendi, án egin verd-
ugleika og medverkunar; en, ad brúka
svo mikilvægt lánad pund vel, ad láta
þad ávallt stjórnast af dygd og rádvend-
ni; ad verja því einúngis til egin og
annara fullkomnunar og heilla, þad er
ad fullnægja Gjafarans vilja, og maña
veglegu áqvørdun um tíma og eilífd.
Einmidt þetta, sem svo mørgum þó
misfarnast, var vorrar háſælu Fram-
lidnu innileg áſtundan; þetta takmark-
id, af hvørju hún aldrei misti sjónir í
øllum hennar heidursverda lífs marg-
víslegu og mótdrægu biltíngum; henn-
ar dæmafáa ſtødugleyndi, áhyggja, hepp-
ni, dygd, einúngis ad vyrda þetta eitt,
sem bar, og ad ná því og halda, þad
má medal aldra og óborinna lengi heid-
ra hennar dygda minníngu, og jáfnan
vera hennar verdſkuldadi en óforgengi-
legi lofstír. O!

O! komid nú fram, ef nockrir erud, og sannid: nær sáud Þér hana nockurntíma reida, nær stygga, afundna, óblída, ennÞótt einatt gæfist megn orsok Þar til? nær óvidqvæma vid Eckjunnar, ens Fodurlausa og Purfamañsins tár? nær mislynda eda hefndargjarna, jafnvel vid sjálfa hennar nánustu hjartans vina íllfúsu offsóknar- og øfundar-menn? nær midur ánægda og órólega yfir Þvi margvíslega strída, sem Forsjónin á stundum reyndi dygd hennar og Þolgædi med? nær heyrdud Þér hana efasama í enu minnsta, ad allir hlutir verdi Þeim til góds, er Gud óttast, eda vantreystandi hans vísu og gódu en undireins réttlátu Fodurstjórn? nær lét hún, ennÞótt Landsins tignasta og mesta Kona, jafnvel Þeim lítilmótlegasta aumingja í ljósi nockurt stærilæti,

eda ad hún finndi til þess upphefdar og ástands mismunar, sem var á milli hennar og hans? Komi nú fram hvorr sem vill af øllum þeim fjølmenna skara, sem um rúm 46 ár hennar búskapar, einhvørntíma var hennar hjú, og vitni, hvørt hann ecki telur sér enn í dag sæmd ad, fyrrmeir ad hafa átt þvílíka Húsmódur, undireins svo hógværa, umburdarsama vid yfirsjónir, ljúfa og rausnarsama, sem besta módir væri; vitni sérhvør af þeim, er nú sitja sumir í embættum, og þær Fyrimanna Konur, sem í hennar hús sóktu kénnslu, frama, lán og heill, hvørsu mikid þeir egi svo ógleymanlegri Húsmódur ad þacka, í tilliti til margsháttar mentunar og velgjørda. Komi fram vinir og vandamenn og vitni, hvørt þeir nockurntíma þeckt hafa hennar líka ad órask-

an=

anlegri trygd og trúfesti, vináttu og velgjørdum, hvørjum daudinn einn orkadi fyrst ad svipta þá. Komi fram sveit øll voladra Þurfamanna, Ekkna og Munadarleysíngja, hærri og lægri naudstaddra, hvørra mædu, svo lángt sem hennar ørláta hønd og ástand leyfdi henni ad tilná, hún fann ætíd yndæla gledi í ad aflétta edur lina, hvørjum og ætíd var hjálp og athvarf vísst í hennar húsi eptir mætti; vitni þessir eptir samvitsku medhaldslaust, hvar var henni náqvæmari, þrautbetri, líknarfyllri módur í Landinu ad finna? já! vitni um leid, hvørsu mikid þeir sameginlega, vid hennar burtkøllun, misst hafa. Kommum, øll hennar hjartkæru Børn, og samhørmum vorum sorgbitna, ástríka Fødur, sem sárt tregar missir ástúdlegustu, yndislegustu, eptirlátustu og bestu

Ekta-

Ektaqvinnu, missir sinnar einka skémt-
unar og gledi, ómetanlegrar huggunar
og adstodar í blídum og strídum um-
biltíngum lífsins, meir enn um helm-
íng hans heidursfulla Lífs, missir sinn-
ar mikilvægu luckn og ánægju, prýdi
og kórónu síns húss, vorrar Ættar og
alls Islands Qvennaskara; komum
og samsyrgjum þessum Landsins dygd-
uga Öldúngi, syrgjum missir ennar
hjartkærustu, ógleymanlegustu og dygda-
ríkustu Módur, hennar missir, sem svo
módurlega umbar vora margsháttar
barna-bresti, og vardi stødugt mikilli
umhyggju og ervidi til þess, ad vér,
med tímanum, verda mættum rádvønd,
luckusæl og henni verdug Børn, Fød-
urlandinu og oss sjálfum gagnleg; kom-
um og vidurkénnum, ad hennar dygd,
ættrækni, kénnsla, gudrækilega umvand-
an,

an, eptirdœmi, er ofs og á œtíd ad vera einna hugfastast af øllum, er vér þeckt høfum, til eptirbreytnis í øllu voru lífi. Komid, Landsins ástkiœru Dœtur af øllu standi! og lítid í þann skiœra spegil, sem vorrar hásœlu Framlidnu sérlega Dygd og óraskanlega Gudrœkni, seint og snémma í øllu hennar lofsverda Líferni, setti fram fyrir Ydur! í þann spegil, sem hennar mannkosta ódaudleg minníng lengi má frambjóda Landsins voxnu og vonarfullu úngu Dœtrum, sem verduga afmálun og munstur fyrir Konur og Kónu=efni, er minnast vilja, ad ecki hégómlegt prjál, ecki affarasnid, sem óstødugleiki fáfengilegs móds og hofmannlegt skraut og svall rœdur til, heldur einúngis lofsverdt framferdi, skyldurœkt, óforgengileg dygd, Gudrœkni, í einu ordi: Qvennkostir, líkir

þeirrar ódaudlegu Frúr **Sigrídar Magnúsdóttur Stephensen**, fá þeim afrekad sama almennings heidur, og ást lífs, sama almennings söknud lidnum, sem henni. Synji Náttúran fjøldanum svo sérlegra gáfna, náttúrufars og luckulegs tækifæris, sem hún svo gódgjarnlega unnti þessari Sálugu, til fyllilega ad ná hennar sporum, hennar undrunarlega grundvølludu þeckíngu, af laungum lestrum og fródleik í margskonar lærdómum, og af samfara greind og reynslu, er þeim samt vegurinn opinn til ad æfa áþecka dygd í lífinu, med jafn mannkjærlegri og hógværri umgengni, gédsmuna eptirdæmaverdustu stjórnun, rádvendni, gódvild, gudrækni, sem hún, og med stadfostu framhaldi ad képpast áleidis til sama, landi og lýdum svo uppbyggilega, en hlutadegendum sjálfum svo heillavænlega takmarks, sem vór hásæla Framlidna svo heppilega

B nádi,

nádi, nefnilega: ad fá fullnægt Manneskja tignarlegu og farsælu Aqvordun hér og sídar

Þanninn skal sálugu Frúr **Sigrídar Magnúsdóttur Stephensens** Minníng lengi lifa íblessun og heidri medal vor allra, já! aldrei útdeya, medan vér med gledi sjáum, eins og vér ræktarsamlega áminnum, vorar og Landsins Dætur, ad rekja hennar dygdaferil í lífinu, til þess ad fá, eins vel og hún, náð þeirra réttu og farsælu ágvordun; fá med somu von og gledi, sem hún, stígid loks áfram þad mikilvæga spor, sem flytur sérhvorn allt í einu frá heimi til himins, frá tímans mædum inn í eilífdarinnar fullsæld, til samfagnadar þar med hennar forklárudu Sálu.





## I.

## Saknadar-stef
eptir
dygdarikustu Módur

# Frú Sigrídi Magnúsdóttur Stephensen, *]
af M. St.

1. Hrellíngarfyllsta árum af
   Atjánhundrud og sjø! hvørs þeiti
Og saga verøld vidbjód gaf,
   Þú vaktir sórg í hvørjum reiti.



*) Fiøldi innkominna Erfiljóda í minníngu þeirrar hásælu Frúr Sigrídar Magnúsdóttur, er meiri enn svo, ad nærverandi tíd og ástand leyfi allra þeirra prentun, eda ad hún þyki naudsynleg, því fylgja hier nockur fáein, til sønnunar ádurségdu, um hennar søknud og Qvennkosti.

Teudradir stríðsins bál og blossa
Burtrændir lífi, eign og frið',
Lètst blóð og tár um lønd útfossa,
Ljómandi dygð ei hlífðist við.

2. Mèr varstu staklegt mæðu-ár,
Meðal óvina fánginn leiddir,
Móður hjartkjærrar missir sár,
Mestri þá lífsins heill mig sneiddi.
Þèr var ei nóg mig hriggt að hafa,
Horfna lands prýði hverr einn fann;
Þá beygðann sorg á barminn grafar,
Þess besta drógstú Yfirmann.

3. Með øllum Dætrum Íslands
Agætast blóm, sem var að finna
Imind dygðar og Qvennakrans,
Kóróna þeirra, gleðin hinnar,
Sigríður Magnúsdóttir má
Mønnum í bráð þó sýnir feli,
Sem munstur lengi mørgum hjá,
Margblessað lifa' í ástar-þeli.

4. Fullsæla Móðir! hvað er hèr
Við himin líkt og þína gleði!
Þú eptirdæmið øðrum ljer

Eins

Eins taka strídu jøfnu gédi,
Ad óttast Gud og elska bródur,
Ovinar gleyma heipt og slægd,
Adstoda veslann, øllum gódur,
Unna dygd, sýna breiskum vægd.

5. Sambodin dygdum sælan há,
Sídar ef lidnum veitist gódum,
Þín hvørsu vegleg vera má,
Verdugast dæmid Íslands Fljódum!
Hvør þess dóttir þinn legstad litur,
Laungunarfull, sem þú ad fá
Seknud Fødurlands, sú er hlýtur
Sem þínar dygdir stundar á.

6. Þeck, Módir besta! þér sé tjed,
Þínum af vinum, ætt og landi!
Þín lifi dygda minníng med
Miklum og veslum óglemandi!
Þú hrelltir fyrst vid dánar dægur,
Dýrdar kjørin ad þyggja hnoss,
Vér huggumst, þegar fegins frægur
Fundur á hædum veitist oss!

7. Þú bendir, Módir! veljid veg,
Vinir! sem géck eg, lífs um slódir,

Rádsvinnir, gæfir eins og eg,
Öllum saknadir, vyrdtir, gódir!
Heill veri þeim er heim svo qvedur!
Heill þeim, er frelstur segja má:
Hér er eg, Drottinn! hóp þeim medur,
Sem heiløg gaf mér þín Forsjá!

---

## II.

## Dygda
og
## Mannkosta Minníng
Hávelborinnar hásællar Frúr
## Sigridar Magnúsdóttur.

af B. Grøndal.

---

Leyptrana rætur vid ýmissar ættir
Almættid festi med ramligum hleck,
Um hálf-kúlu þrúnginnar hverfulu gættir
Hvass-oddud reyrínga myndanin geck;
Þær snúast um loptin med snarkandi hvinum,
Snarodar fram eptir bólstranna gynum,
Og sócka vid mótþaninn Sjóndeildar-hríng.

Hjer-

Hjervista dvølin, hmsu ødru fremur,
Vid Eilífd borin, varir miklu skjemur
Elldíngu þeirri, sem frá austri kemur,
Og vid Sólhvílda-bedi stadar nemur;
Sjø fullir týgir, sjaldan fleiri ár,
Lída frá byrjun lífs, til þess ad gár
I grøf vor nár.

Æsku fjøruga glampa glis
Gynnir ad kæti neista;
Mentudum aldri mælir slis
Metorda trappan reista;
Ellina gagnid gædasamt
Gyrnir og þeginn luckuskamt
Ad auka, framar freista.

En þegar varir allraminnst
Ungdómsins fjørid viknar;
Aldri fullroskinum eigi vinnst
Uppgánga, þróttur kiknar;
Gamalmennisins gljúpa líks
Glidnud Samtengíng, arms og ríks,
Hels í fángbrøgdum bliknar.

Offeint, offeint er þá vid yndarslit,
Ad reida næmt, og reikna sína daga,
Þá Daudans møckva þúngir knettir

Þjer nidurspenna slaknad brjóst,
Og þánkinn eigi annad sjer,
Enn grafar svelg, og svip eilífra daga;
Æskunnar sæ, og fullra tída blóm,
Og aurinn fagri eigi glóir meir'
Enn nótt og nið.

En þeim Forsjálu, alla stund
Er toldu sina daga,
Verdur Daudinn ad blídum blund',
Brot ei' samvitsku naga;
Velbrúkud tíd þeim fylgir skjótt
Fram úr þérvista dymmri nótt
Í lífsins ljósar bygdir;
Þeim Sigur-førum flytjast í
Fyri Guds dómstól, ofar ský,
Miklar og margar Dygdir.

Þannig í burtu leid sem ljós,
Leyfd fyri dygda gnóttir,
Sitt uppbyrjandi Sigur-hrós
Sigrídur Magnúsdóttir,
Qvennprýdi skreytt og kostum þeim,
Er krefur Gud í þessum heim
Af þeim er ord hans rækja,
Og Drottins vilja fegins fund,
Í fagurbúid sælu-mund
Guds-barna, sídar sækja.

Háſællar Frúr vid Bana-bed
Med høndum tengdum hriggar ſtódu
Fegurd og Blída, Fyriqvennska Snild,
Og adrar ſlíkar, ſem er hægt ad ſjá
J naktri prýdi óſjálfrádar;
Og fleiri Dætur Guds, er engi gat
Af eginlegu yfirbragdi kennt,
En þeirra ſkart og athøfn þýda ljet,
Hver undir fógru fati ſtód;
Gudrækni n yfirgnæfdi þenna ſkara
Medaumkan hugarlát, og Lundin jøfn,
Skarpvitur Spekt, og Lítillætis Dygd.
Sú fagurbúna Meyja-mergd
Sorgbitin nidurkraup, og neyddi Gud
Med heitri bæn, ad lengja líf
Þeirrar lifendu frægu Frúr;
En Drottinn, blídur eptir venju, ſagdi:
Þjer vitid mína vegu eigi rett;
Fullvaxid blóm eg nem á tækri Tíd,
Og vil ad ønnur vaxi ſlík!
Og af ſkyndingu ſkar hin mikla Sigd
Þad dýra Djáſn.

Þad er gæfan ſem fáir fá
Fyri ſitt komid Endadægur,
Alþýdu prís af alúd ná

Og vid hann lifa, daudum frægur;
En hin blessada besta Frú
A burtu vid hann fêck ad deyja,
Þess fagra kynsins krónan sú,
Kref eg þá fram er annad segja.

* * *

Ad hún var mín og minna Stod,
Meist ôskyldt vid þenna hródur;
En Drottins þad hid blída bod:
Þér ber ad vera hverjum gódur,
Þad rækti hún af hug' og dád
I hverju sem ad vera skyldi;
Og — þad var Drottins ædsta nád,
Ad hún þad bædi gat og vildi.

* * *

Eptirdæmid var Ydur sett
O Þér hjartkæru Landsins Dætur!
Ad feta mannkosta feril rétt;
Fyri þad eina Drottinn lætur
Allri blessun á lífsins leid,
Og lífs þegar allir kraptar hnigna,
Vidur lífdaga skundad skeid,
Ad skautum Ydar nidurrigna.

Graf=



III.

## Graffkrift.

Hér bídur Upprisu
allra manna
af. hánum Adli
Hofdings Qvinna
Frú Sigridur Magnúsdóttir,
fædd
þann 13da Nóvembr. 1734.
gipt
þann 16da Septembr. 1761.
Vice-Løgmanni
Nordan- og Vestan-lands
Herra Olafi Stephánssyni,
Amt- og þareptir fyrstum innlendum
Stiptamt-manni yfir Islandi.
Hún

Hún vard módir ad 7 Børnum
— og — deydi
þann 29da Nóvembr. 1807.
á 74da aldurs ári.

Hún var prúd ad hverju einu
Haldin medan leyfdist aldur;
Fagur samda líkhams limu
Láta, snilldar prýddi máti.
Hegdan blíd, og høfdings ædi
Hugar ásta lotníng bugad
Henni fengu hjarta innan
Hárra manna líkt og smárra.

Rækni Guds var hennar heidur,
Og hjarta nád vid menn fáráda,
Lundin jøfn vid aına og yndi
Æfilánga skøpudu gæfu.
Hvøss ad námi, hugar dóma
Heldur skarpliga jafnan felldi;
Hennar kosti hófu mesta
Hvergi skeikadir mannúdleikar.

Þjer ef valid þjóda ræmi
Þykir ſkarta hverju meſt,
Eptir Guds og gódra dæmi
Gjördu þad ſem hagar beſt.

## Sic Itur Ad Astra.

B. Gröndal.



### IV.

1. Svart er í háu ſalakynni
Svar ammarka allra lauſu
Nótt á jördu, nid í mána,
Hulinn rødull og heidar ſtjörnur;
2. Sveymar Verand um ſal háann,
Hverfanda hveli hverſulari;
Urd árborin, önnur ſyſtra,
Skuld hin þridja, ſkýi hulin.
3. Þúngt er Verand í þeli nidri,
Þrúngin ſtarir þurrum augum,
Hrollſlegri ſlær ad heitu brjóſti,
Haſin andvörp querkar kjæſa.

4. Lokſ-

4. Loksins tára-lindir tvennar,
Hjarta þraungu hægdir veittu,
Þá qvad Verand: viti aldir,
Sár mein eta sinnu mína.

5. Byggir beltregi breida ranna,
Þykja bylgjur brattar nærsta,
Biltast þrefaldar í brimórum,
Hvín stormur hávarr um hús utan.

6. Sorg er í háu salakynni,
Fadmar Olaf, frægstann Herra,
Verst honum hjarta í brjósti gódu,
Grætur Öldúngur, sem úngbarn væri.

7. Liggur sælborin lík í ranni,
Mild Sigrídur Magnúsdóttur,
Frú en frægsta, fyrrist gledi
Blídann maka, bern og vini.

8. Tala tárin tíd sem renna,
Sárann seknud, sorgir lángar,
Dád hinna látnu, dygd syrgenda,
Heidri vefjast helgar moldir.

9. Prýdir kistu plata sylfurs,
Sylfurlosid, líki verdugt
Orbyrgdar grátur, umfram lofar,
Ljúfa Frú og launum heitir.

10. Liggur sælborin lík í foldu,
Hana sá eg harmdaudasta
Fyrsta sinni, sárum trega
Góð nú olli, en gledi tídum. —

11. Urd hóf rædu: yndæl skylda
Sé mér jafnan satt ad mæla,
Þó munu heldur herd' enn lina
Ríkar sorgir, rædur mínar.

12. Man eg Sigrídi Magnúsdóttir,
Foreldri frægstu fordum borna,
Ljós var ad litum, ljúf í skapi,
Í ment og manndygd metnad sýndi.

13. Mey hvítarmud ollum þókti
Kostur besti; en kynstórum
Ljúfmennsku prýddum og lærdóms frama
Audun studdum, er studdi sjálfa.

14. Olafi giptist, en gipta fylgdi,
Þá sá eg Øfund sídbrjhudasta,
Þá sá eg blídast brosa Gæfu,
Holla jafnan hjónum bádum.

15. Þá sá eg besta sólu nedar,
Ektaqvinnu oldum borna,
Þá frá eg besta foldu ofar,
Módur finnast frón um alda.

16. Var

16. Var hún módir margra barna,
Og undirrót audnu þeirra,
Mun blód hennar hvergi renna,
Utan dygdir strax fylgi.
17. Sjá hvar mátti sýnum fegri?
Eda sjást hvar sidprúdari?
Eda gáfud umfram hana?
Eda dygd=audugari?
18. Hver húsmódir henni betri?
Greind, blíd, hógvær, gjøful framar?
Hver í umgengni alúdlegri?
Hver sneid sannleik sæmri klædi?
19. Hver bar trúrra hjarta í brjósti?
Nóg er trygd nálæg hennar,
Hver trú sína sýndi ljósar
Verkum medur? veit eg særri.
20. Þá qvad Skuld í skýi hulin:
Sárt er ad heyra sorgar=telur,
Hví er hin sæla hulin tárum?
Hví vidqvedur brigd í sölum?
21. Hæfir vinum vina sælu
Sárt ad syrgja? svarid, kjæru!
Grátid af gledi! glød er daudi
Fæding til sælu sorgarlausrar.

22. Sjáid

22. Sjáid fjøtur sundurslitin,
Þau er anda ódaudlegum
Mold vidbundnum, meina knáttu
Frjálsar farir, til fødurhalla.

23. Heyrid Engil' hljómi blídann
Dygdugann heimta til himinbygda,
Elskadann anda í upphædum,
Hans ei lengur himin sakni.

24. Hátt á himins hvelfing bláu,
Gulli sunna glóir fegri,
Lágt er á lopti, ljóma døpur,
Sól hjá sælli sál á hædum.

25. Fagna Foreldrar fundi Dóttur,
En hún afqvæmi undanførnu,
Fagna útvaldir og Englaskarar,
Fagnid vinir Framlidinnar!

26. Lifir hin látna lífi sælu,
Lof hennar lifir lengur øldum,
Saknadar snúa sorg í gledi
Samfundir vina í sælubygdum.

A. Jónsson.



V.

Fáord

# Frægdar Minning

Hávelborinnar
nú í Gudi hásællrar

## Frúr

## Sigridar Magnusdottur,

minnar fyrrum ógleymanlegrar
Húss- og Velgjørda-Módur.

Lagid er: O hvad madurinn misjafnt sjer!

1. Verdt er, 'en ecki vegna mín,
Módur lát
Eg med þér gráti,
Island! vegna þad er þín.

2. Sá sem tímanna veltu veit,
Og vorra daga
Kannar baga
Gledst med þeim, sem leystann leit.

3. Sam-

3. Gamall og þreyttur ordinn eg
Vøls af sveymi
Hèr í heimi
Horfi fram á daudans veg.

4. Þó bannar skyldu þánkinn mèr,
Um ad þegja
(Og eckért segja)
Tilburd þann, sem ordinn er.

5. Vid høfum staka Módur mist,
Frú Sigrídi,
Foldar prýdi,
Því er von, ad þú sèrt tvist.

6. Dóttir ens mikla Magnúsar
Rød ei minni
Sjálf í sinni
Stands og ættar verdug var.

7. Verdugt hlutskipti mesta manns;
Allt þann mengi
Lofar lengi
Herra Olaf, heidur lands.

8. Þann man eg Fødur kjærskyldann,
Hana góda
Man eg Módur,
Vøl er mèr, ad hrygdist hann.

9. Hvenær ad øllum hefir þú
Dygdum, gáfum,
Heidri hávum
Henni borid meiri Frú?

10. Hvenær mun ønnur Henni jøfn
Adal=blóma
Og øllum sóma
Krýna þinna Qvenna nøfn?

11. Hvornig andagift helst til veik
Minna ljóda
Má sambjóda
Vissins stóra verdugleik.

12. Pad er med skari ad skíra sól
Skyldi' eg vilja
Pér frambylja
Ennar frægu Frúar hól.

13. Hún lifir enn, og lætst ei meir,
Sálin lifir
Aldir yfir,
Alldrei heidur dygda deyr.

14. Hún lifir enn, og lætst ei mejr,
Ást og minni
J allra sinni
Dygda módur dána þreyr.

15. Eg flækist og í flocki þeim
Hryggur, gladur
Mædu madur
Þrái betra þessum heim.

16. Módur velgjørdir miklar brádt
Til, ad þacka
Henni hlacka
Himnum á, þar allt er kátt.

17. Sú ad uppfylling verdi von!
Bidur láinn
Braut ad snúinn
Burtlausnar
Jón Þorláksson.



*VI.*

Svo litid smælki
Cyprus-blada,
Strád á leg lidinnar
Landsins Módur,
Sigrídar Magnús sællrar dóttur,
Fyrstu Stiptamtmanns
Frúr íslendskrar,
Er um sjøtugt árid fjórda,

Líkt sem ljós leid af heimi,
Aldar nítjándu ár sjøunda,
Dag Nóvembris nærst þeim sídsta.

Lagid er: Hvíld er þæguſt þjádum.

1.

Sér eg Videy sakna, sorgar-búníng klædiſt,
Missir vid má vakna, von er ångur fædiſt,
Öldúngs augu rakna, inn því hrygdin lædiſt,
Minnid svo mædiſt.

2.

Sér eg qvenna-kransinn, kjørinn stiga hljóta,
Daprann sorgar-dansinn, drjúgum tårin hrjóta,
Burt er gledi-glansinn, gefst ei vardar njóta,
Bresta råd bóta.

3.

Fríd er følnud rósa, Frú Sigrídur deydi,
Dyrstu prýdi drósa, dána hylur leidi,
Henni þarf ei hrósa, hún hér medan þreydi,
Hét sól í heidi.

4.

Dyrmæt Amtmañs dóttir, dåda Stipt-amtmanni,
Fest med frægdar gnóttir, fyrstur Islands svanni,
Skreytt

Skreytt með skaps íþróttir, skein sem ljós í ranni,
Raun sögu sanni.

5.

Guðhrædd, gáfum bestu, gjædd til munns og handa
Hjarta mildi mestu, mæddann nærdi anda,
Forvitur í flestu, fegurd ektabanda,
Verk öll réd vanda.

6.

Unun Ektamaka, alla veitti daga,
Ást og adstod staka, allt til góðs nam laga,
Engum illt réd baka, öllu best þó haga,
Sönn er sú saga,

7.

Hógvær, trygg af hjarta, Herrans lærdóm virdti,
Andlits ásýnd bjarta, edla sinnid byrti,
Sköpun fríd nam skarta, skynsemd sigra hyrdti,
Sorg, þó ad syrti.

8.

Ljós og prýdi Landsins, leysd um vora reita,
Audna Ektamannsins, ydin vel ad breyta,
Heidur háa standsins, hnossin qvenna-sveita,
Hún mátti heita.

9.

Líf framdró med dygdum, dygda munstrid felda,
Sett í sæld og hrigdum, sidug vel nam stelda,
Uns ad efri bygdum, öndin gjördi lída,
I unun blída.

10.

Dyggar landsins dætur! dveljid gledi neyta,
Höfud=motur mætur, má hér fallinn heita;
Ætti eins ágætur, Ydar hóp ad skreyta,
Lángt má þá leita

11.

Blundar hold í hægdum, hefir legstad þegann,
Lifir lof med frægdum, leyfir prís eindrægann.
Gud med gædsku nægdum, gledji Eckil frægann,
Gefi styrk gnægann!

J. Hjaltalín.





VII.

Vid Jardarför
Hávelborinnar Frúr
# Sigrídar Magnússdóttur,
S. T.
Stiptamtmannsins yfir Íslandi
Herra
# Olafs Stephánssonar
Ektaqvinnu,
ad Videy, þann 21ta Decembr. 1807.

Lagid Jer: Þjer, Drottinn! þacka eg.

1. Jsfold af ecka stird
Andvarpa þúngum fer,
Hretskýum harma byrgd
Huldu saknadar ber;
Hábornust hennar dóttir
Lík nú til moldar lagin er.

2. Ektamann hefdar hár
Hústrúr vidskilnad þreyr,
Dætur og Syni sár
Sorgar þok nístir geir,
Ætt, vini, gøf'ga, góda.
Sturlar sú fregn: hún finnst ei meir.

3. Islands allmørg jód
Umkríngja þessa grøf,
Hvørs ángrast hyggja mód
Holdsvistar endtri tøf
Frúr, sem ad flesta þádi
Af Drottni vits= og dygdar=gjøf.

4. Sigrídur sigrad fèck
Sorg heims og daudans pín,
Til ædri gledi gèck
Gudi treystandi sín —
Þó hennar dygda dæmi
Eptirlifendum ávalt skín.

5. Sárfølann Cypres=krans
Sól vonar rodi blíd!
I alsælu Engla lands
Allt gleymist lífsins stríd;
Þar vora vini finna
Unni oss Gud, þá er hans tíd!

F. Magnússon.



## VIII.

### Einfold
### Ljódmæli,

qvedin vid Vidſkilnad ennar

### Gódfrægu Frúr
### Sigrídar Magnúsdóttur,

er andadiſt ad Videy,

þann 29da Nóvembris 1807.

Lagid er: Þjer, Drottinn! þacka eg.

Ættjardar meſta manns, því mjøg ſvo ƒrelliſt géd? þáttvyrdu Barna hans, harmi hvad valda réd? því gjørvøll Iſagrundar, børn, þeim ſér nidur barma med?

2. Orſøkin afar ſmá, eckimun þeſſa til; æ! — ſvo ſtór er hún — já! (aptur mér ſvara vil), ad meiri á ſkal varla, géfid lýdum ad gjøra ſkil.

[3. Ágæt-

3. Ágætast Ísa-lýd, af Gudi veitta sjen, frægasta fyrr og síd, fósturlands augum sjen, — sú lengst þreyda — Sigrídur, Stiptamtmanns Frúin Stephensen.

4. Þad veldur grímu gráts, um grídar vindaból: ofan í andar láts, ægi rann klæda-sól; dagsljómi dagfars hennar, sig í vetfángi sjónum fól.

5. Fædíngar austri í, Íslandi nær sko[?] þá, upprenna aptur ný, eins og hún björt ad sjá? ugga eg ad — því midur! — býsna laung verdi bid þar á.

6. Ástúd afbrygda fríd, er henni lánast vann, gagnvissann gjerdi lýd, um gódann inn-ra mann; frekari kynníng færdi, samt framar raun á sannleikann.

7. Ofkornum skamti af, skynsemi hrínga, ná, Gud og Náttúran gaf, sem giptu ad brúka þá, sér til lofs, henni, hennar, til gagns, og ødrum útífrá.

8. Allt

8. Allt hennar líf var ljós, lýsandi Kristi hjerd, hún mátti reiknast rós, rer í Guds plentu-jerd, og verdugt Ekta-yndi, háborinum þjódar vorrar verd.

9. Trygg, hæversk, lítillát, ljúf, gudhrædd, þagmælsk, fróm, athøfn hat æ med gát, undir samvitsku dóm; elskudu meiri, minni, ríkir og snaudir brúda blóm.

10. Ærugjörd erlátt var, um æfi fyrr og síd; nærgjæt og náqvæm var, naudstaddra øllum lýd. Hvad er gott eitt sem ecki, dygduga prýddi dúkablíd?

11. Enginn viss' annad slétt, ætti hjá henni bygd, enn lofsverdt — enn sem rétt, á skilid nafn af dygd. Slíkt mætast hnoss ad missa, er von hjá øllum vekji hrygd.

12. Færi er naumast neins, ad ná hennar set; skjaldgæft mun annad eins, umgengnis Raritet; O! þér, Dygd utan maka, (hvørt mannsbarn tjer) eg gleymt ei gét.

13. Æ! vor med sár á sár, sárqvalda Fósturjörd! æ! hennar tár á tár! (hver táraefnin hörd, fylgjast á fætur ödrum); hún synist einum hörmum spörd.

14. Á tídar þyngd, sem tjed, traudt verdur maki neins, þó lagdist þángi med, þessa saknadar meins, ad missir ástfólgnustu, dóttur, já! — módur undir eins.

15. En látum oss til frids, íhugun stilla þá: í selskap Engla lids, hvar öld Guds fagna má, er betri vistarveru, heldur enn hér í heimi ad fá.

16. Í þeirri unun nú, allskonar leyst frá hrygd, hásæluft Höfdings Frú, hefir stadfasta bygd; þar vill Gud veita hennar, verdugast umbun d'yrri dygd.

17. Andláts stund uppá ný, ei Henni grandad fær, Hún lokid hefir því, Hennar gódfrægdin skjær, æ medan Ísland stendur, ei fólks úr minni fallid fær.

18. Hann, sem vík stærsta stands, stúr-
ir sér misst frá hlíd, Herra' Olaf, hærsta
Lands-höfdíngja, Stephåns nid; Börn,
Ættmenn, Vini alla, Gud huggi best og gædi
frid!

19. Uns þegar ångurs kífs, öll mæda
horfin er, åstfólgna' å landi lífs, lifandi aptur
sjer, þar gèfur þeim ad einast, Eilífdin, tíd
sem aldrei þver.

P. Jónsson.



